# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

17. ÁRG. WINNIPEG, MAÍ 1902. NR. 3.


## Sálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM út af Jóh. 15, 1—8.

(Lag: Þann heilaga kross vor herra bar.)

1. Í Paradís forðum plantað var
eitt prýðilegt tré í miðið þar.
Það lífsins tré var í beztum blóma,
það bar af því unaðsfagran ljóma.

2. Á jörðinni veit eg víntré hér,
í veröldu mitt það plantað er;
það breiðir sig vítt um allar álfur,
sú eikin hin fríða' er Jesús sjálfr.

3. Í jörðinni fast hann festi rót,
en fögr skín krónan himni mót;
hann breiðir sitt lim um veröld víða,
sem vilji' hana taka' í faðminn blíða.

4. En greinar á hinum grœna við
um gjörvallan heim er mannkynið.
Vér greinar af honum allir erum;
hvort ávexti lífsins vér þá berum?

5. Hver grein sú, er ávöxt góðan ber,
til gróðrs með alúð rœktuð er;

hin ávaxtarlausa' er ört af sniðin,
hún óhœfileg er fyrir viðinn.

6. Ef viðarins lífskraft vantar grein,
þá verðr það hennar dauðamein.
Ef skilið við Jesúm svo vér segjum,
vér sjálfir þá visnum upp og deyjum.

7. Hver grein sú, er viðnum áföst er,
hún eilífan lífskraft ber í sér.
Af laufguðu trénu lífsins fríða
oss lát þú, vor drottinn, aldrei sníða.

8. Ef greinarnar verða grœddar við,
þá, guð minn, þig eg af hjarta bið :
Æ, grœddu við hina visnu kvisti
á víntrénu grœna, Jesú Kristi.

---

## Blómstr-frœin.

Líkingarmálssaga, sœnsk að uppruna.

Garðyrkjumaðr einn hafði safnað feikna-miklum forða af allra handa blómstrfrœi í stóra kassa. Kassarnir voru margvíslega hólfaðir sundr, og í hólfunum var frœtegundunum vandlega niðr raðað og hver tegund nafngreind. Mest-allt frœið var smágjört og veikburða, þótt skapnaðr þess og litr væri breytilegr, — sumt eins og smá sandkorn. En frœkorn allra tegundanna voru gœdd skynjanda viti og gátu látið hvert öðru í ljósi hugsanir sínar. Þau höfðu samrœður um marga hluti alveg eins og vér gjörum í þessum málskrafsheimi.

En með því þau höfðu aldrei komið út úr híbýlum sínum, kössum garðyrkjumannsins, gátu þau með engu móti skilið, hvernig högum var háttað í heiminum fyrir utan. Engu að síðr töluðu þó mörg þeirra um slíkt með eins mikilli fullvissu eins og hefði þau fengið frœðslu um alla hluti út í yztu æsar.

Sum þeirra beittu öllu hugsunarafli sínu til þess að svara ýmsum mikilsvarðandi spurningum, sem jafnt snerta frœ og

menn. ,,Hvað erum vér?" — spurðu þau hvert annað. ,,Hvað verðr af oss síðar meir? Erum vér að eins líkamlegar smáagnir? Eða er ef til vill í oss hið innra hulið afl, leyndardómsfullt líf, sem vér fáum ekki skilið og skynsemishugsan vorri er ofvaxið að rannsaka?"

Þau vissu það, að innan skemmra eða lengra tíma myndi þau verða flutt burt úr þáverandi bústöðum þeirra og lögð niðr í kalda jörðina til þess að rotna þar. Þau gátu á hverri stundu búizt við því, vesalingarnir, sem var farið að þykja svo hjartanlega vænt hverjum um aðra — og svo stóð nú reyndar á fyrir mörgum—, að sjá garðyrkjumanninn koma til þess að sundra þeim og láta þessi ægilegu örlög á þeim lenda. En merkilegt er það, að einmitt þau af frækornunum, sem töldu sig öllum vitrari, hirtu minnst um, hvað við tæki fyrir sér, — létu sem sér stæði algjörlega á sama, hvernig fara kynni. Spurningin um það, hvort þeirra biði algjör dauði eða ekki, var þeim lítils virði, að því er virtist. Sum lýstu jafnvel yfir því opinberlega, að það, sem þeim geðjaðist bezt að, væri fullvissan um ævarandi gjöreyðing. ,,Tilvera eilífs lífs" — sagði einn af þessum spekingum—, ,,það að geta aldrei dáið — það er ef til vill hræðilegasta hugsanin, sem ískalt ímyndunaraflið getr látið verða til!" Önnur frækorn komu með þá staðhæfing í nafni ,,vísindanna", og kváðu hana ,,ómótmælanlega og margsannaða", að einstaklingseðli fræs gæti með engu móti haldizt eftir að fræið væri orðið uppleyst; engin skynsemi gædd og upplýst vera gæti eitt augnablik látið sér detta önnur eins fásinna í hug. Var unnt að koma með nokkurt andmæli, sem dygði, gegn þessum vísindalegu fullyrðingum? Þessir hálærðu vitringar, sem út í æsar höfðu rannsakað alla eðlisfræðislega og efnafræðislega leyndardóma í fræheiminum, þóttust geta sannað, að eins víst og tvisvar tveir eru fjórir, eins víst lægi að eins rotnan fyrir frækornunum; og svo var þetta enn frekar rökstutt með löngum og snjöllum ræðum úr sömu átt.

Fjöl-mörg frækorn létu sannfærast af þessum háfleygu yfirlýsingum; og með því þau þorðu nú ekki lengr að trúa á lífstilveru eftir dauðann, þá beygðu þau sig fyrir forlaganauðsyninni og lifðu eins og þeir, sem enga von hafa.

En fáein frækorn, fjólufræ, sóleygjarfræ og aðrar skógarblóma-tegundir, kváðu það upp í heyranda hljóði, að hvað sem öllum vísindum liði væri þau um það fullviss — heilbrigð skynsemi sagði þeim það —, að í hinu forgengilega hismi líkama þeirra væri fólginn vísir lífstilveru, er fyrir þeim lægi eftir dauðann. Þeim var reyndar að sjálfsögðu það ofvaxið, að gjöra nákvæmlega grein fyrir eðli þessa nýja lífs eða því, á hvern hátt þau ætti að lifna aftr við eftir rotnanina. Það allt var þeim ekki full-ljóst. En þau höfðu vafalaust, óskeikanlegt hugboð um hreinna loft, bjartara ljós, sælla líf, sem þeim væri fyrirbúið. Og þeim var óhugsanlegt, að það hugboð reyndist tál. Þau trúðu á tilveru hluta, sem auga þeirra ekki hafði enn séð og eyra þeirra ekki enn neitt heyrt til.

,,Þetta er ekki annað en fagr draumr án nokkurs veruleika'' — sögðu vitringarnir, glottandi. ,,Þessar æstu ímyndanir geta dugað yðr, einfeldningunum. Vér, sem upplýsing höfum fengið, viljum ekki af ásettu ráði svifta yðr þessum heilaspuna, úr því hann virðist vera yðr til ánægju. En vér, hin stóru sólarblómsfræ — vér *vitum*, hvers virði slíkir draumórar eru, og viljum vera lausir við þá. Það má *sanna*, að ekkert, sem í oss er, lifir eftir eyðing líkamans, og þetta líf vort hér á eingöngu rót sína að rekja til jarðneskra efna, sem runnið hafa saman um stund, en eiga svo fyrir sér að leysast sundr aftr innan skamms. Trú yðar er heimska.''

Frækornin litlu trúuðu, sem alls ekki létu hina vantrúuðu vitringa telja sér hughvarf, höfðu félagskap sín á milli til þess að minna hvert annað á hina sameiginlegu von þeirra. Og til svo mikillar huggunar urðu þeim félagsfundir þeirra, að mörg þeirra þráðu jafnvel þá stund, er garðyrkjumaðrinn kæmi til þess að taka þau og gróðrsetja þau í jörðinni.

Loks upprann sá dagr frækornunum öllum. Húsbóndi þeirra kom, og þau urðu að láta flytja sig burt úr húsnæðinu notalega í kössunum og sökkva sér niðr í kalda og hráslagafulla moldina í garði einum stórum. En hin litlu fjólufræ og sóleygjarfræ kenndu ekki neins kvíða, er þau voru látin niðr í hálf-opna leirgröfina. Hin sæla von, sem hjá þeim var innan brjósts, hélt huga þeirra uppi, og þau sögðu hvert við annað, er

þau kvöddust að skilnaði: ,,Í guðs friði! Innan skamms mœtumst vér aftr."—,,Já, vér munum aftr sjást"—heyrðust önnur frœkorn segja, er þau hurfu undir moldar-ábreiðunni, sem ofan á þau var látin. Og sum bœttu við sigri hrósandi: ,,Og Salómon í allri sinni dýrð var ekki svo skrýddr eins og vér munum verða í fylling tímans."

Vantrúaðir vitringar, hálærðir heimspekingar, kaldlyndir kæruleysingjar, hin meiri háttar frœ og minni háttar frœin — allt hvarf á sínum tíma ofan í svarta, kalda jörðina.

Dagarnir liðu, vetrardagar kaldra krapahríða, næðandi vinda og œðandi storma. Sólin kom aftr í ljós með sí-vaxanda afli. Jörðin, sem lá í dvala, tók smásaman að vermast af sólargeislunum. Enn sást þó ekkert merki þess, að breyting væri að verða, enginn vísir til lífs, engin upprisa eða hreyfing.

Svo vantrúar-boðberarnir höfðu þá haft satt að mæla! Því frœkornin öll höfðu greinilega horfið í moldinni, þar sem þau voru grafin.

En eftir er að sjá, hvað fram kemr ,,í fylling tímans" undir hinni bláu himinhvelfing í hinu tæra lofti og hinum milda vorblæ. Hvílík gleði og sæla þá! Nýjar engilfagrar verur birtast þá. Skepnan endrfœdd. Hvílík opinberan! Þarna sérðu frœkornin litlu dökku, lítilmótlegu, sem áðr voru. Hvílík ummyndan! ,,Líttu á mig!"—segir fjólan í lágum róm við sóleygjuna. ,,Þekkirðu mig? Eg kannast vel við þig. Þú ert systkini mitt, sóleyg. Við erum enn þær sömu sem við vorum, og þó ekki eins og áðr. Gef mér morgunkoss upprisunnar!" Og hinir angandi blómstrbikarar þeirra beygðu sig hvor að öðrum. Eilífðarblóm ljómandi í fegrð morgunroðans, kattaraugu, rósir og liljur — öll þessi blóm eru þar, hvert um sig með sínum glitrandi sérkennum, vegsamleg gjörð fyrir opinberan hins hulda lífskjarna, sem læknum hefir ekki tekizt að finna með líkskurðarhnífum sínum né náttúrufrœðingum með stœkkunarglerum sínum.

Nætrgalinn syngr. Lœkjarbuldrið heyrist. Sólin glampar á grœnu laufskrúði. Döggin dreifir út demantskenndum dropum yfir dúnmjúka gras-ábreiðu grundarinnar. Fiðrildin líða suðandi milli blómanna. Hvílíkr unaðr! Hvílík dýrð!

Blómin öll hafa hneigt höfuð sín til þess að biðjast fyrir, full af fagnanda þakklæti út af því að hafa þegið alla þessa margföldu blessan. Þau finna til þess, að garðyrkjumaðrinn mikli er með þeim og er með þeim fagnandi út af hlutskifti þeirra. Og fullvissan um það, að þau eru honum velþóknanleg, er mesta fagnaðarefnið þeirra.

Hvað skyldi sjálfbirgingarnir litlu, sem áðr voru svo upp með sér út af ,,lærdómi" sínum, nú hafa hugsað? Eg veit það ekki. Getið þér ímyndað yðr það?

---

## Að trúa kristilega.

Umrœðu-upphaf á samtalsfundi í Selkirk sunnudaginn 9. Marz 1902.

Eftir séra Friðrik J. Bergmann.

Mörgum er það ekki ljóst, hvað það er að trúa í kristilegum skilningi. Þeir álíta, að það sé hið sama og að hafa eitthvað fyrir satt.

Oss er sagt frá hinum eða þessum hversdagslegum atburði. Vér segjumst þá trúa honum eða trúa honum ekki eftir atvikum. Það fer eftir því, hvort oss finnst hann líklegr eða ólíklegr,— hafa góð rök eða léleg við að styðjast. Langoftast trúum vér því, sem oss er sagt. Það er eðli voru samkvæmt.

Á þennan hátt trúum vér sögulegum viðburðum, sem fjarri oss liggja. Þar sem um viðburði mannkynssögunnar er að rœða, hefir einstaklingrinn vanalega ekkert annað fyrir sér en það, sem hann hefir lesið í einhverri bók um það efni, eða það, sem hann kann að hafa heyrt einhvern mann segja, eða það, sem hann hefir hugboð um að menn almennt muni hafa fyrir satt.

Alla mannkynssöguna frá upphafi til enda tökum vér trúanlega á þennan hátt. Vér trúum því, sem einhverjir menn, er fœrt hafa mannkynssögu í letr, hafa ritað. Sjálfir höfum vér ekkert tœkifœri til að rannsaka þær sögulegu heimildir, er einstakir viðburðir mannkynssögunnar hafa við að styðjast. Vér trúum því öllu, tökum við mannkynssögunni eins og hún er lögð upp í hendrnar á oss, tökum þá niðrstöðu,

er sagnaritararnir hafa komizt að, vanalega trúanlega í einu og öllu.

Vér trúum líka hver öðrum. Dagsdaglega þurfum vér á því að halda. Vér byggjum daglega á orðum og sögusögn annarra manna, án þess vér höfum nokkuð annað við að styðjast. Vér flytjum úr einni heimsálfu í aðra — tökum oss upp úr einni sveit og flytjum í einhverja aðra, ef til vill í mörg hundruð mílna fjarlægð — og byggjum þá stórkostlegu ráðabreytni, er hrinda hlýtr örlögum lífs vors inn á öldungis nýjar brautir, á orðum og sögusögn annarra manna, er vér trúum.

Það er víst með öllu óhætt að gjöra þá staðhœfing, að mennirnir byggi margfalt meira á því, er þeir á þennan hátt taka trúanlegt, en því, sem þeir hafa fengið áþreifanlegar sannanir fyrir með eigin eftirtekt og rannsók. Skilningarvitin eru ágæt og ómissandi, og það er um að gjöra fyrir hvern einstakan mann að komast upp á að nota þau sem bezt. En þegar allt kemr til alls, er það svo undr lítið svæði, sem þau ná út yfir, að vér komumst ekkert úr sporunum, ef vér ætlum ekki að trúa öðru en því, sem þau hafa fœrt oss heim sanninn um.

Vér verðum því eins og að skifta verkum með oss og láta þá, er lært hafa að beita skilningarvitum sínum vel, veita því svæði eftirtekt, sem þeir eru helzt heima á, og taka svo trúanlegt það, sem þeir segja oss og leitast við að koma oss í skilning um. Sú tiltrú byggist á því áliti voru, að aðrir menn muni segja oss álíka rétt og samvizkusamlega frá því, er þeir veita eftirtekt, eins og vér segjum þeim rétt og samvizkusamlega frá því, er fyrir augun ber. Jafnframt lítum vér svo á, sem þeir muni hafa álíka skilyrði til að dœma um það og vér.

Þessi trú og tiltrú er stóra hjólið í öllu lífi mannanna hér í heimi. Á henni byggist allt félagslíf, öll viðskifti — allt það, er einn maðr á við annnan að sælda. Án hennar dytti allt mannfélagsskipulagið í mola og menning heimsins blési burt eins og hégómi.

Af þessu er öllum ljóst, hve afar mikla þýðing þessi almenna trú hefir. Án hennar fengi enginn lifað. Vér mennirnir gjörum svo sem ekkert annað en að trúa frá morgni til

kvölds alla þá daga, sem vér erum hér á jörðunni. Það er ekkert til almennara né sjálfsagðara í mannlegu eðli en það.

En hingað til höfum vér hugsað um trúna á allra lægsta stigi. Vér höfum virt hana fyrir oss eins og hún kemr í ljós í daglegu lífi allra manna. Allir þurfa jafn-mikið á slíkri trú að halda, eða svona hér um bil, hámenntaðasti maðrinn, sem til er, ekkert síðr en mesti villumaðrinn. Vér byggjum allir á orðum og eftirtekt annarra, reiðum oss á einhverja aðra menn en sjálfa oss, látum þá að meira og minna leyti leiða oss. Það er ekki unnt að benda á einn einasta mann, sem ekki hefir gjört þetta og ekki gjörir það dagsdaglega. Ef einhver ímyndar sér, að hann láti að eins leiðast af rökum, er hann hefir fundið við áþreifing eigin skilningarvita, er það einungis barnaleg ímyndun og ekkert annað.

En nú er talað um trú í öðrum skilningi en þetta. Sífellt hafa mennirnir fundið til þess, að þessi daglega trú þeirra hvers til annars verðr sér oft og einatt til minnkunar. Þeir segja oft og tíðum ekki rétt frá, draga hver annan innan um og saman við vísvitandi á tálar. Oft veita þeir þessu eða hinu óviljandi ranga eftirtekt, misskilja það, sem fyrir augun ber á einn eðr annan hátt, draga ósannar ályktanir, er leitt geta sjálfa þá og aðra í gönur. Þetta getr allt haft raunalegar og háskalegar afleiðingar og varpað miklu böli inn í líf mannanna.

Samt hættum vér ekki að trúa. Oss er það ekki með nokkru móti unnt. Sál vor lyftir sér heldr upp yfir þennan fallvalta og táldræga heim. Þótt mönnunum öllum geti skjátlazt, þótt orð þeirra og eftirtekt sé oft og tíðum svo og svo rugluð, þótt ekkert í mannheimi sé með öllu áreiðanlegt, svo ekki fái það brugðizt, er samt til heimr, þar sem allt stendr heima, líf, þar sem vonin ekki er tál og trúin verðr sér aldrei til minnkunar, — persóna, sem allt veit og allt sér og dœmir rétt um alla hluti — ímynd góðleikans, sannleikans og heilagleikans. Þeirri persónu er óhætt að treysta. Henni er sjálfsagt að trúa.

Þess vegna er trúin á einhvern guðdóm eins almenn og hún er. Þörfin til hennar er svo óumrœðilega rík í eðli

mannsins. Vér fáum ekki án guðs verið. Oss er ekki nóg að eiga trúna á þessu lægsta stigi, þar sem hún er að eins tiltrú eins manns til annars. Oss er hún að öllu leyti ónóg, ekki sízt vegna þesss, að hún dregr oss svo oft á tálar, af því mennirnir, sem vér trúum, eru alla vega breyskir og ófullkomnir.

Flestir menn hafa einhverja guðstrú. Hún er á ýmsu stigi og lendir oft út í villu og allskonar hjátrú og heimsku, eins og trúarbrögð heiðingjanna bera áþreifanlegan vott um. Samt skoða flestir þau sem fálm mannsandans eftir hinum sanna guði. Og þeirri skoðun heldr postulinn Páll fram, þegar hann talar við grísku spekingana á Areópagus.

Maðrinn leitar eftir guði og guð leitar eftir manninum, því í honum lifum, hrœrumst og erum vér. Guð leitast við að kenna manninum að þekkja sig. Og trúarþörf mannsins knýr hann á stað í leit eftir þessari guðsþekking. Þar sem hin siðferðislega alvara í þessari leit er nógu mikil til þess leitin sé einlæg leit, þar sem manninum finnst öll velferð undir því komin að hann finni, þar fær hinn sanni guð sett sig í samband við sálir mannanna og gefið þeim sjálfan sig til kynna.

Á meðal fornþjóðanna átti þetta sér stað hjá Ísraelsþjóð um fram allar aðrar. Vér fáum ekki skýrt það á neinn annan hátt, að guð útvelr sér þá þjóð um fram aðrar. Alvaran í leitinni eftir honum, þörfin í sálunum eftir hinu eina áreiðanlega, hefir þar hlotið að vera meiri en hjá öðrum þjóðum og öll þau skilyrði, sem nauðsynleg voru til þess að þekkingin á sönnum guði gæti fram komið meðal mannanna og öðlazt ákveðna mynd. Enda sannar saga Ísraels þetta, þegar vér berum hana saman við sögu annarra fornþjóða. Samvizkuhlið mannsandans er þar betr vakandi en með nokkurri annarri þjóð. En vakandi samvizka er nauðsynlegr jarðvegr fyrir guðlega opinberun. Einungis í þeim siðferðislega jarðvegi fær blóm hinnar sönnu guðstrúar vaxið og þroskazt.

Þess vegna er líka einungis ein opinberun til og ein sönn og áreiðanleg opinberunar-trúarbrögð. Hin önnur trúarbrögð, er fram hafa komið meðal mannanna, bera það með

sér, að þau eru hugsuð upp af þeim sjálfum, orðin til eingöngu og algjörlega hér á jörðunni. Þetta á sér stað um öll hin svonefndu trúarbrögð heiðingja-þjóðanna, hvort sem þau eru kennd við Múhameð, Konfúsíus, Búdda eða Brahma. Þau eru einskonar heimspeki, sem trúarþörf mannsins hefir skapað sér. Kjarninn í þeim, sannleiksatriðið, er allir sanngjarnir menn fúslega kannast við að þau hafi að geyma, er fálm mannsandans eftir hinum eina og sanna guði.

Ísraelsþjóð var útvöld þjóð í þeim skilningi, að hún ein kom auga á skapara sinn, staðnæmdist frammi fyrir honum, svo hún fékk smásaman að komast í skilning um eðli hans — að hann elskar mennina eins og faðir elskar börnin sín.

Í hverju er þá guðstrúin fólgin? Hún er fólgin í þessu fyrst og fremst, að maðrinn kemr auga á skapara sinn. Sál mannsins nemr staðar frammi fyrir þessari einstöku, andlegu persónu, sem er upphaf alls og allt hefir á valdi sínu. Fyrst vaknar lotningin, en svo um leið skyldleikatilfinningin. Þarna er upphaf og orsök lífs míns. Þarna er sá, sem eg á allt að þakka og mér er öldungis óhætt að treysta. Þá vaknar líka tilbeiðslan í mannssálunni. Maðrinn varpar sér fram fyrir þessa andlegu persónu, sem hann finnr að veit huldustu hugrenningar hans. Hann þakkar honum og prísar hann og biðr hann að hjálpa sér, eins og barn biðr föður sinn. En áðr en maðrinn komst svona langt, var guð að draga hann til sín, nær og nær sér, þangað til trúin og traustið vaknar í hjartanu. Við hvorttveggja kannast maðrinn ávallt sem guðs gjöf.

Á þennan hátt finnr maðrinn guð, ekki af eigin rammleik, heldr fyrir það, að sá guð, sem vill opinbera sig fyrir mönnunum, hefir verið að undirbúa hjarta hans og draga hann til sín. Á hvern hátt það verðr, er og mun ávallt verða leyndarmál, sem enginn maðr fær til fulls skýrt, hvorki fyrir sjálfum sér né öðrum. En hin innri meðvitund hans ber um það ótvírætt vitni: Þetta lifði eg, þetta hefi eg reynt, þetta geymi eg í sálu minni með eins mikilli vissu og það, sem eg hefi þreifað á líkamlega.

Þess vegna segjum vér: Trúin er eitthvað, sem fram fer

á milli guðs sjálfs og mannsins — eitthvað, sem maðrinn sjálfr lifir og reynir og ekki byggist á neinni sögusögn. Hún er einskonar ný sköpun, — nýtt óumrœðilega sterkt lífsafl, sem kemr inn í sál mannsins um leið og hann kemr guðdóminum svo nærri, að hann fær þekkt hann.

Guðstrúin er því í innsta eðli sínu ekki það að hafa eitthvað fyrir satt, sem maðr hefir heyrt og lesið, heldr andlegr viðburðr, er fram við mann kemr og maðr fær sjálfr andlega reynslu fyrir. Hún er innifalin í því, að sjón andans opnast, svo maðrinn sér þann, sem óhult er að treysta, réttir honum höndina og lætr hann leiða sig. Hann lifir með guð í huga sínum og finnr auga hans hvíla á hverri hugsun, orði og athöfn. Hann sér nú, hvað rétt er, miklu betr en nokkru sinni áðr og finnr nú til sársauka út af því, hve hörmulega langt líf hans er frá því að vera eins og það ætti að vera. Hann biðr þá guð að fyrirgefa sér og hjálpa sér.

Svona var guðstrúin hjá Ísraelsþjóð. Móses og spámennirnir sögðu frá því, sem farið hafði á milli þeirra og drottins. Orð þeirra eru vitnisburðr um það, sem fram við þá hafði komið og lifandi varð í hjarta þeirra. Sá vitnisburðr þeirra varð til þess að draga Ísraelsþjóð til guðs og láta marga fá lifandi reynslu fyrir hinu sama. En það, að þjóðinni hætti svo mjög við að falla frá og virða þessa guðsþekking vettugi, kom ávallt til af því, að henni hætti svo mjög við að nema staðar við vitnisburðinn, hlýða honum sem einhverjum útvortis myndugleika, en þreytast svo á því hvað eftir annað, af því það var ekki orðið lifandi í sálunum og reynsluna þess vegna vantaði fyrir því, að þetta væri sannleikrinn. Tilhneigingin til að gjöra sig ánœgða með annarra sögusögn, lifa á þeirra reynslu og beygja sig fyrir þeim myndugleika, í stað þess sjálfir að hafa fyrir því að ganga svo nærri, að hin lifandi trú fengi vaknað í hjarta þeirra, varð trúarlífinu með Ísraelsmönnum að fótakefli, eins og hún ávallt hlýtr að verða, þar sem hún verðr ofan á.

Guðstrúin í Ísrael var eðlilega í byrjun. Gamla testamentið segir oss frá upphafi hennar og þroska. Mannkynið er eins og barn, sem vex upp í föðurgarði. Það kann fyrst ekki

einu sinni að ganga, en lærir það smátt og smátt. Aðalatriðið í guðstrú Ísraelsmanna var trúin á guð sem föður. Hann leiðir barnið sitt við hönd sér. Hann kennir því að ganga. Hann gleymir því aldrei. Eins og faðir hegnir óþekkum syni, þegar hann er óhlýðinn, hegnir drottinn lýð sínum, þegar hann breytir á móti vilja hans. En hann er líka náðugr og góðr og fljótr til að fyrirgefa. Hans vilja verðr að verða framgengt í öllu. Það hefir blessun í för með sér fyrir soninn að breyta eftir honum, en ólán og volæði að virða hann vettugi. Það er fásinna að ætla sér að fara í kring um hann eða beita nokkrum kœnskubrögðum. Föðuraugað sér það allt, og það verðr að engu. Faðirinn er óumrœðilega vandlátr og kröfur hans háar. En hann er líka réttlátr og gjörir sér engan mannamun. Og ef sonrinn er einlægr og faðirinn verðr var við einlæga viðleitni hjá honum, þá fyrirgefr hann breyskleikann, því hann breytir ekki við soninn eftir verðleikum, heldr samkvæmt föðurkærleika sínum.

Þetta er nú í fáeinum dráttum guðstrú gamla testamentisins. Það er trú barnsáranna og unglingsáranna. Öll saga Ísraelsmanna miðar til þess að koma þessari guðstrú inn í hjörtu þjóðarinnar. Drottinn lét þá fá margfalda og margendrtekna reynslu fyrir öllu þessu.

Á þessum grundvelli birtist svo í fyllingu tímans hin fullkomnari opinberun nýja testamentis tíðarinnar. Jesús Kristr kemr fram á sjónarsvið sögunnar til að koma mönnunum enn betr í skilning um föðurkærleik drottins. Hann var maðr að öllu leyti eins og vér. En hann hafði verið hjá föðurnum frá eilífð og var ímynd hans veru ; hver sem sá hann, hafði líka séð föðurinn. Hann hverfr aftr til föðursins, því hann og faðirinn eru eitt. Hann hefir stofnað andans ríki hér á jörðunni í hjörtum allra þeirra, sem á hann trúa. Hann er höfuð þess ríkis og konungr og allr heimrinn er lagðr undir veldi hans. Því hann er sjálfr guð. Hver sem trúir á hann, trúir líka á föðurinn. Og hann opinberaði mönnunum kærleika sinn með því, að hann lét son sinn eingetinn ganga í dauðann til að draga þá til sín. Og hann sýndi mönnunum, hvernig synir þeir ætti að vera og gæti verið, ef þeir elskuðu föður-

inn. Hann sendi þeim sinn anda í hjörtu sín. Þessi andi leiddi þá í allan sannleika og starfaði í hjörtum þeirra og gaf þeim máttinn til að þjóna honum í kærleika og láta líf sitt vera fórn, eins og hans líf hér á jörðu var fórn.

Á þennan hátt verðr guðstrúin í Ísrael að kristilegri trú. Maðrinn hlýðir ekki lengr af ótta fyrir hinum stranga föður, heldr af því kærleikrinn þrýstir til hlýðni. Vilji föðursins er ekki lengr eins og eitthvert ógnandi lögmál fyrir utan mann, heldr er hann búinn að fá vald yfir hjörtunum.

Hvernig kemst nú einstaklingrinn til þessarar trúar? Hvernig myndast trúin á Jesúm Krist í hjörtunum? Ef vér eigum að gjöra sjálfir grein fyrir trú vorri, rekjum vér byrjun hennar ávallt eins langt niðr í œsku vora og endrminningin nær. Vér munum þá eftir því, sem oss var sagt af föður og móður eða einhverjum öðrum um guð og frelsara vorn Jesúm Krist. Eða vér munum eftir því, þegar vér í fyrsta sinn bárum bœn vora fram fyrir drottin. En allir munum vér finna til þess, að byrjun trúarinnar í hjörtum vorum hafi verið löngu á undan því, er vér fáum munað eftir að vér erum komnir til fullorðins áranna. Enginn man fyrstu bœnarorðin, sem fóru honum yfir varir meðan hann var barn. Enginn kristinn maðr, sem heyrt hefir börn bera fram bœnarorð um leið og þau lærðu að tala, myndi vilja neita, að sú bœn geti hafa verið sönn bœn og guði þóknanleg, hversu lítið vakandi sem meðvitundarlíf barnsins enn þá er. Vér trúum því, að hin fyrsta byrjun hafi verið í hjörtum vorum við skírnina; en sú byrjun verðr ætíð leyndarmál, af því vor eigin meðvitund segir oss ekkert um það, sem þá kom fram við oss.

En sú byrjun trúarinnar, sem vér fáum gjört oss nokkra grein fyrir, átti sér stað í lífi voru, þegar vér komum auga á mannkynsfrelsarann sem hina einstöku guðmannlegu persónu, er uppfyllti alla trúarþörf hjarta vors. Vér sögðum þá ósjálfrátt með Tómasi: ,,Drottinn minn og guð minn!" Vér fundum þá, að það að hafa séð hann er hið sama og að hafa séð föðurinn. Vér vorum frá þeirri stund sannfœrðir um, að hann og faðirinn eru eitt. Eftir því, sem vér komum honum nær, báðum hann oftar, hugsuðum rœkilegar um hann í sambandi

við líf vort, fundum vér, að hann fékk meira vald yfir oss og að hans andi varð sterkari hjá oss. Og í öllu fengum vér um leið stöðuga reynslu fyrir trú vorri,—reynslu fyrir því, að hann er vegrinn, sannleikrinn og lífið,—að það er öldungis óhætt að breyta eftir hverju orði hans og að allt annað leiðir mann afvega.

Hin saluhjálplega trú er þá eitthvað, sem fram fer milli mannsins sjálfs og mannkynsfrelsarans. Það er eitthvað, sem hinn einstaki maðr hefir andlega þreifað á og er eins viss um og nokkuð annað, sem hefir fyrir hann komið. Maðrinn verðr ekki sáluhólpinn fyrir eitthvað, sem honum hefir verið sagt, eða fyrir eitthvað, sem hann hefir lesið. Hann verðr sáluhólpinn fyrir það, sem lifandi hefir orðið í sálu hans. Hann verðr sjálfr að hafa hrópað um hjálp og frelsun, öðlazt hvorttveggja—og fundið um leið hönd hins lifanda guðs snerta við sér.

Fáum vér þá án þess verið að oss sé sagt um frelsarann og vorn himneska föður? Öldungis ekki. Það er einmitt þetta, sem hefir dregið oss til guðs. Það voru fyrst orð föður og móður eða einhvers trúaðs manns, sem drógu oss. Síðar var það nýja testamentið, sem dró oss, og allr sá vitnisburðr trúarinnar, sem þar hefir lífsuppsprettu sína. Lærisveinarnir sögðu frá því, sem fram við þá hafði komið og lifandi var orðið í sálum þeirra. Trúin í hjörtum hinnar fyrstu kristni kom fram við þann vitnisburð. Með þeim vitnisburði leiddu þeir mennina í þau spor, að þeir fengi séð Jesúm Krist eins og hann var. Þegar þeir voru komnir í þau spor, féll neisti trúarinnar í hjörtu þeirra. Sjálfr hafði frelsarinn dregið huga lærisveinanna með því að segja þeim frá því, er lifði í sálu hans, og gjöra það lifandi í sálum þeirra. Þetta, sem lifandi varð í sálum þeirra, myndina af honum og hugsunum hans, hafa þeir sýnt oss í skuggsjá í nýja testamentinu. Og af því andi hans bjó hjá þeim í fyllingu og gjörði allt þetta lifandi fyrir þeim og dró þá inn í svo náið samfélag við frelsarann, varð trúarlíf þeirra heitt og ákaft og innilegt um fram aðra menn, sem lifað hafa. Þess vegna eru orð þeirra og vitnisburðr ótæmanleg uppspretta fyrir trúarlíf allra manna

og allra kynslóða. Þau eru líka sjálfsögð alin, sem vér eigum að mæla trú vora með og leiðrétta hana eftir. Orð þeirra gjöra mynd mannkynsfrelsarans og kærleika vors himneska föður lifandi í sálum vorum fyrir þann anda, sem í þeim býr.

En vér skulum ávallt muna eftir því, að kristileg trú er ekki í því fólgin, að hafa nú fyrir satt jafnvel það, sem í nýja testamentinu stendr. Hún er annað og miklu meira en það. Enginn verðr sáluhólpinn fyrir það. Eg get vel hugsað mér mann, sem aldrei hefir efazt um neitt, sem í biblíunni stendr, hvorki í gamla né í nýja testamentinu — aldrei hefir fundið neinn efa vakna í hjarta sínu út af neinu atriði trúarinnar, og samt sem áðr hefir ekki sáluhjálplega trú í hjarta sínu, vegna þess hann hefir aldrei komizt í lífssamband við frelsara sinn og aldrei öðlazt neina trúarlega reynslu. Eða þó hann hafi komizt það einhvern tíma á æfinni, t. d. þegar hann var barn, hefir látið það deyja út, af því hann hefir ekki rœkt trú sína og ekki hirt um það, sem er aðalatriðið fyrir hvern mann, að halda innra manni sínum vakandi, ákalla drottin, og vera sísnertandi faldinn klæða hans.

Og eg get vel hugsað mér annan mann, sem hefir efazt um mikið og margt og enga djörfung hefir til að segja, að hann trúi þessu eða hinu, en hefir samt sem áðr lifandi og bjargfasta trú í sálu sinni á frelsara mannanna, sem ef til vill getr gjört trú annarra manna til minnkunar.

Að trúa kristilega er því að standa í lífssambandi trúarinnar við frelsarann og láta vilja hans og hugsanir fá vald yfir hjarta sínu og lífi. Til að rœkja þessa trú höfum vér náðarmeðu'in og auk þeirra bœnina, sem er lífæð hinnar sáluhjálplegu trúar.

---

Undir sérstakt próf í íslenzkum frœðum gengu seint í Apríl (21.—23.) átta af ungmennum þeim, sem séra Friðrik J. Bergmann í nafni kirkjufélags vors hefir í vetr í Wesley College hér í Winnipeg veitt tilsögn í þeim námsgreinum. Fleiri úr þeim hópi gátu af ýmsum ástœðum ekki tekið þátt í því prófi. Ein ástœðan og hún hin helzta sú, að sum ungmennin voru áðr hætt skólagöngu sinni þetta ár og komin heim til sín. — Prófið var eingöngu skriflegt. Skólamálsnefnd kirkjufélagsins fól tveim mönnum (hr. Sigtrygg Jónassyni og séra Jóni Bjarnasyni) að tiltaka verkefni fyrir prófið, og það gjörðu þeir. Var og svo til ætlazt, að sömu menn væri líka prófdómendr, en annar þeirra (hinn fyrrnefndi) var fjarverandi þá, og komu í hans stað þeir herra Magnús Paul-

son og hr. Tómas H. Jónsson, báðir úr skólanefndinni. En verkefnin voru þessi:

I. ÍSLANDS LÝSING.

1. Hver er hnattstaða Íslands og stœrð? Hver er íbúa-tala? Hver lönd liggja næst Íslandi?
2. Hverjir eru flóar og helztu firðir?—eyjar og nes? og hvar?
3. Gef yfirlit yfir landslagið. Hver undirlendi eru þar stœrst? Nefn helztu jökla, eldfjöll og hraun.
4. Hver eru helztu fljót og ár á suðrlandi? — á vestrlandi? — á norðrlandi? — á austrlandi?—Nefn þrjú stór stöðuvötn á Íslandi?
5. Hvaða sýslur eru á svæðinu milli Breiðafjarðar og Húnaflóa?
6. Hvar á landinu er Reykjavík? — Akreyri? — Stykkishólmr? — Þingvellir?—Geysir?

II. SAGA ÍSLANDS.

1. Hver nam fyrst land á Íslandi? og hvar? og hvaða ár? — Nafngrein nokkra helztu landnámsmenn aðra. Og hvar settust þeir að?
2. Skýr lítið eitt frá Úlfljóts-lögum. Hver réð því, að sett voru fjórðungsþing? og hve nær?—Hver kom á fimmtardómi? og hve nær?
3. Hverjir unnu mest að kristniboði á Íslandi? Hve nær var kristin trú leidd þar í lög? og með hverjum atvikum?
4. Seg frá þinginu mikla? Hvaða ár var það haldið? og hvað var þar aðal-málið?
5. Hverjir voru fyrstu innlendir biskupar á Íslandi? Hve mörg biskupsdœmi? Nefn biskupssetrin. Hvar var fyrsti skóli á Íslandi? og hver kom honum á fót?
6. Skýr frá merkasta skógarmanninum á Íslandi.

III. ÍSLENZK RITGJÖRÐ.

Hvers vegna ætti ungmenni af þjóðflokki vorum hér í landi að læra íslenzka tungu og leggja rœkt við íslenzkar bókmenntir?

Prófdómendum kom saman um, að ungmennin (6 drengir og 2 stúlkur) hefði yfir höfuð ágætlega skilið sig við tvö fyrstu verkefnin og full-viðunanlega við hið þriðja.

---

☞ Næsta kirkjuþing á Garðar; byrjar laugard. 21. Júní, kl. 10.30 f. m. — Sjá auglýsing í „Lögbergi" 15. Maí 1902.

---



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn" fylgir með „Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada,—Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON. BJÖRN B. JÓNSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.